Jón Borgfirðingur

# Ræður,

haldnar við jarðarför

## Jóns Sigurðssonar,

dannebrogsmanns,

á Alptanesi á Mýrum,

14. dag októbermánaðar

1853.



---

Reykjavík 1854.

Prentaðar á kostnað dánarbúsins í prentsmiðju Íslands

hjá E. Þórðarsyni.



Jón Borgfirðingur.

# 1. Húskvedja,

haldin af sóknarpresti hins framlidna,
sjera **Gudmundi Vigfússyni** á Borg.

---

Vjer vitum, fadir, „ad syndin er af einum manni komin í heiminn, og daudinn vegna syndarinnar", og vid þessu meini vex engin grædijurt um vída veröldu. En þú hefur, höfundur lífsins, gródursett trje hins eilífa lífsins hjer á landi daudlegleikans, og opnad oss öllum veg og adgang ad því. Æ! hjálpadu oss til, ad leita hans og finna hann, og feta hann áleidis, svo vjer getum nád því takmarki, sem þú hefur ætlad oss og fyrir sett, því laun syndarinnar er daudinn, en þín nádargáfa er eilíft líf í drottni vorum Jesú Kristi. Amen.

---

**Nád sje med ydur og fridur af gudi födur og drottni vorum Jesú Kristó.** Kólóss. 1, 2.

---

Þad er og hefur jafnan verid venja, ástkæru tilheyrendur, á medal allra sidadra þjóda, ad

menn stýla hverjir ødrum heilla- og blessunar-ávørp, bædi þegar þeir finnast og skilja aptur, hvort það er á førnum vegi, heima eda út í frá, eda hvort heldur funda- eda samveru-stundin hefur verid stutt eda løng; og er þetta bædi fagurt og undir eins kristilegt, þar það er og á ad vera vottur þess, ad hver vilji ødrum vel, og ad hver vilji umgangast annan í kærleika. Þannig sjáum vjer t. a. m., ad postulinn Páll byrjar og endar flest sín sendibrjef, hvort heldur þau eru stýlud til heilla safnada, eda einstakra manna. „Nád og fridur af gudi og drottni vorum Jesú Kristi" eru þær blessunar-óskirnar, sem hann ítrekar bædi fyrst og seinast.

Ad sønnu getum vjer leitt oss í huga, og það eigi án orsaka, ad þess konar ávørp og kvedjur sjeu stundum manna á medal tóm venja og fyrir sidasakir, eptir því sem þær eru stýladar og frá hverjum þær koma, en aptur er á hina hlidina eins víst, ad þær eru, hvad marga snertir, af gódum røkum og rótum sprottnar.

Tungan verdur hjer, sem endrarnær, ad vera túlkur hjartans, og enginn veit til fulls, nema sá, sem hjørtun og nýrun rannsakar,

hvad med manninum býr, eda hvort ósk hans snertir hjartad mikid eda litid, ellegar ekki; og ad minnsta kosti er þad víst, ad slík ávørp og óskir snerta hjørtu allra vidkvæmra, vandadra, trúadra og gudhræddra manna, hvort heldur þeir stýla þær sjálfir til annara, eda heyra þær og medtaka af munni þeirra, eins og þad þykir skortur á velsæmi og kristilegu framferdi, þegar þær ekki eru fram bornar á hæfilegum tíma.

En þyki mønnum þad nokkurs um vert, ad gódar óskir og ávørp hafi, eins og hvad annad, sinn tíma, ad hver ávarpi annan í kærleika og med kristilegum ordum og kvedjum, þegar þeir hittast eda skilja aptur, þó þeir enda hafi litid eda ekkert saman ad sælda, hvad má þá segja um þá, sem mikid eiga eda hafa átt saman ad skipta, um lengri eda skemmri spøl eda tíma af vegferdinni? er þad ekki tilhlýdilegt og líklegt, ad heilsunar- og kvedju-ávørp þeirra hafi enn þá meiri og dýpri þýdingu? Eptir því, sem sambandid var nánara, ástríkara og vidfelldnara, eptir því snerta kvedjur þær og ávørp, sem menn senda hver ødrum, meir hjørtun, eptir því verda þau heitari, alvarlegri og hjart-

anlegri. Þvi lengur sem þeir hafa saman vid oss búid, þvi gedfelldari sem þeir hafa verid, þvi meira sem þeir hafa unnid oss i hag og stutt ad velferd vorri, þess nær hjarta ganga oss kvedjur þeirra, þvi meira þykir oss fyrir, vid þá ad skilja, allrahelzt ef likindi eru til, ad menn eigi ad skilja til langframa, og þvi hjartnæmari verda þær óskir, sem vjer stýlum þeim ad voru leyti aptur á móti.

En sjeu þær kvedjur innilegar, vidkvæmar og hjartanlegar, sem vinir stýla vinum, þegar þeir ad eins skilja um stund, med þeirri von, ad sjást og finnast aptur innan litils tima i þessu lifi, med hvilikum tilfinningum og alvörugefni munu þá þær sidustu kvedjurnar stýladar, þegar vjer vitum fyrir vist, ad oss ekki audnast, ad sjá þá aptur med augum likamans? þegar þeir, eins og þeir voru ad dyggdum, atgjörvi, mannkostum og framkvæmdum, standa oss fyrir hugskots-sjónum, og þad er eins og skrád á minnisspjald hjarta vors, hvilikir þeir reyndust frá fyrsta til sidasta, en vjer hljótum vid þá ad skilja og þeir vid oss? Sú kvedja getur ekki verid án sárra, vidkvæmra tilfinninga, þegar madur eda kvinna hlýtur ad

skilja vid ástríkan ektamaka í sídasta sinni, foreldrid vid barnid, barnid vid foreldrid, eda einhvern þann, sem gekk því í þess eda þeirra stad, eda þegar heimilid verdur ad sjá á bak vondudum, virtum og elskudum húsfødur eda húsmódur, sem í margt ár hefur med sóma og umhyggju alid ønn fyrir því, og á allar lundir, í ordi og verki, stutt hag þess og velgengni; sú kvedja hlýtur ad snerta hjørtu, ekki einungis einstakra, heldur margra og á ýmsar hlidar; sú kvedja verdur ekki útmálud med ordum, því tungutak mælskunnar á þau ekki til, en tilfinningar hjartans lýsa henni bezt, ekki einungis hid innra, heldur líka hid ytra. Eins og manni bregdur vid, þegar ljós slokknar í einu herbergi, sem skinid hefur þar skært og glatt, og lýst oss vid størf vor, og vjer sitjum eptir í myrkri og audn, svo bregdur einnig heimilinu, þegar húsfadir eda húsmódir kallast burtu, sem med dæmi sínu, dagfari og umsjón, hefur verid ljós þess í margt ár.

Ad vísu er þad ærinn munur, hvort burtkøllunin skedur allt í einu, eda med addraganda, hvort vjer getum verid undir hana búnir ellegar ekki, hvort oss med sótt og sjúkdómum

er gefinn eins og frestur eda fyrirvari ellegar ekki; en þó er þad líkast því, sem ljós hverfi ástvinum og elskendum eda heimilinu; því hvort þad slokknar allt í einu, eda daprast og dregur af því smátt og smátt, þangad til þad lidur í dauda-dá, þá verdur myrkt eptir hjá þeim, sem vid þad sátu.

Þannig bregdur oss nú, ástkæru, ekki einungis hinni sárt tregandi, heidrudu ekkju, børnum, ástmennum og vinum, heldur øllu fjelaginu, og þeim, sem til þekktu og til nádu, nær og fjær, þegar sá er nú látinn og lidinn burt sem ljós, er lengi blakti á skari ad sídustu, sem um 66 ára skeid var prýdi og yndi þessa heimilis, og í rúm 43 ár sómi og forstødumadur húss og sveitar, sem med dád, dugnadi og skyldurækt vann svo lengi og sómasamlega ad verki sinnar køllunar, sem efldi eiginn hag, heimilisins og fjelagsins hag af ýtrustu kroptum, og kom alstadar fram til góds, vid hvern sem hann átti ad skipta, bædi til orda og verka; vjer getum ekki kvatt hann í sídasta sinni án sárra tilfinninga, án þess vjer komumst vid hid innra; því um leid stendur þad oss berlega fyrir hugskotssjónum, hver og hvílíkur hann var, og

hvad hver af oss í sinn stad hefur misst. Mørgum af oss er þad einnig ljóst, med hvilíkum tilfinningum, hvilíku hjartaþeli hann skildi vid ástvini sína og elskendur, og hversu hjartnæmar þær kvedjur voru og óskir, sem hann stýladi þeim allt fram undir andlátid, og er þad þá ekki skylt, ad vjer tøkum aptur kvedju hans med sømu vidkvæmnis-tilfinningum?

Já, þess vegna erum vjer nú komnir hingad í þetta sorgarinnar hús, ad vjer vildum mæla þau ordin, sem vjer vildum hafa kvatt hann med í sídasta sinni, og stýla hans eptirþreyjandi ekkju, børnum, ástmennum, og øllu heimilinu hans sídasta skilnadar-ávarp.

Eins og „nád og fridur vors guds og frelsarans Jesú Krists“ var yfir þjer, vor framlidni vinur, á allri þinni lífsleid, eins og þú barst gæfu til, ad mida áform þín, ord og gjørdir vid vilja vors guds, og allt þitt rádlag og framkvæmdir báru vottinn um þad, hvar sem þú komst fram, ad „nád og fridur hans“ var med þjer og yfir þjer, hvort þú varst staddur heima eda út í frá, á sjó eda landi, í sorg eda gledi, svo óskum vjer, ad „nád og fridur“ hins sama fylgi þjer nú út af þessu þínu húsi,

hvar þú hefur svo lengi dvalid til heidurs og sóma, í ordi og verki, med rádum og dád, í hegdun og framgøngu, og hvíli ávallt yfir moldum þínum, og minning þín verdi ávallt blessud medal eptirkomandanna.

Vjer minnumst þess allir med þakklæti, skyldir og vandalausir, hver og hvílíkur þú varst, ad vilja, ordi og verki, og þá minning skal ekkert geta slitid eda upp rætt úr brjóstum vorum.

En um leid og vid kvedjum þig nú í sídasta sinni, med hrærdum tilfinningum og kløkkum hjørtum, stýlum vjer einnig þínum eptirþreyjandi ástkæru vinum, ektakvinnu, børnum, náungum, fósturbørnum, hjúum og heimilisfólki, þitt sídasta kvedju-ávarp, sem þínar deyjandi varir mundu hafa sent þeim, eptir því þeli, sem fyrir hjartanu bjó.

„Nád og fridur af gudi og drottni vorum Jesú Krísti sje med ydur øllum“. Þetta er sú óskin og ávarpid, sem hans deyjandi varir mundu hafa stýlad ydur, því hann unni fridi, fram gekk í fridi, og efldi fridinn.

„Fyrir nád drottins og í hans fridi flyt jeg „nú burtu hjedan, hvar jeg hef átt svo lang-

„vinna dvøl, en þið verðið eptir um sinn, meðan
„stundin er enn þá ekki komin. Jeg kveð þig
„því, mín ástkæra, sem nú hefur í rúm 42 ár,
„með einstakri dyggð og trúmennsku, nærgætni,
„blíðu, ástúð og umhyggjusemi, borið með mjer
„hita og þunga dagsins, böl og byrði lífsins,
„geymandi endurminningu þinnar óslítanlegu
„elsku, umönnunar og tryggðar í hjarta mínu,
„sem gagntekið er af þakklátsemi fyrir það, hver
„og hvílík þú varst mjer frá fyrsta til síðasta;
„munninn brestur mál til, að lýsa elsku þinni,
„en hjartað fann það, já, fann það deyjandi.
„Eins og okkur fannst, að við mættum hvorugt
„annars án vera á heilbrigðu dögunum, svo var
„það ekki síður á eymda-, sóttar- og sorga-stund-
„unum, og ekki sízt í mínu síðasta stríði, sem
„þú hjálpaðir mjer til að deyja með trú og þolin-
„mæði, svo jeg gæti borið sigurinn úr býtum; þjer
„er það bezt kunnugt, hvernig jeg bar byrðina,
„sem á mig var lögð, hversu jeg hóf andvörp
„mín til guðs, og hversu heitt jeg bað, að hann
„meðtæki sálu mína í sitt miskunarskaut; því
„þú manst, að jeg hafði löngu áður sagt, að
„jeg væri ánægður með að deyja, en jeg kvíði því,
„ef drottni þóknaðist, að leggja á mig langvinnar

„þjáningar. Nú hefur hann af náð heyrt „bænir mínar; jeg hef nú fengið sigur, lagt „niður ferðastaf minn, og það niðlagsfatið, „sem ekki gat þjenað sálu minni lengur til í„búðar, og er nú orðinn heimamaður hjá guði, „en nú ráðstafar þú, með sóma og skyldurækt, „mínum jarðnesku leifum til hins síðasta leg„staðar, og þreyir nú og þráir með eptirbið „þá stundina, að leysast hjeðan, og flytjast til „þess landsins, hvert jeg er nú á undan þjer „kominn, hvar við innan lítils tíma munum „sameinast, og samfagna hvort öðru yfir fengnu „frelsi, og þann fögnuð mun enginn frá okkur „taka. Náð og friður míns guðs sje með „þjer að eilífu".

Með líku ávarpi kveður hann yður, sín ástkæru afkvæmi og fósturbörn, hverju nafni sem heitið, hvort þjer eruð hjer nærstödd eða fjærverandi. Hann þakkar yður alla blíðu, ást og auðsveipni sjer til handa, og biður yður, að vökva rækilega það dyggðasæðið, sem hann sjálfur gróðursetti og ljet aðra frjóvga í hjörtum yðar. Þjer eruð þess án efa minnug, hversu ástríkur faðir hann var yður, hvað vel hann vildi yður og bar umhyggju fyrir yður

til lífs og sálar. Það er sem jeg sjái hans deyjandi varir bærast, til að bera fram þetta ávarp: „Hafið eins einlæga viðleitni á, að reynast börn„in mín, í reynd og sannleika, og jeg vildi vera „ykkur góður faðir; geymið heilræði mín og „bendingar í sjóð hjartna yðvarra; verið trú „yfir litlu, þá mun drottinn setja ykkur yfir „annað meira, þá munuð þið öðlast hluttöku „í því hnossinu, sem drottinn hefur nú gjört „mjer að hlutskipti; verið ykkar þrautbeygðu, „ástkæru móður til yndis og ánægju; ljettið „henni byrði lífsins, það sem eptir er daganna; „afþerrið tár hennar, og greiðið veg hennar „að takmarkinu, sem hún ávallt mun feta í trú „og von, með blíðu, ástsemi, viðfelldni og nær„gætni, þangað til að lausnarstundin kemur, svo „á ykkur rætist orð fyrirheitisins, að ykkur megi „vel vegna, og þið lifið lengi í landinu. „Friður míns guðs sje jafnan með yður".

Sömu ávarps-orð og heilræðis-óskir ítrekar hann einnig til annara vandamanna og elskanda, tengdasona og tengdadóttur, sem einnig eru börn hans, bróður, hjúa og skjólstæðinga, og biður hvern fyrir sig, að gæta köllunar sinnar í ótta drottins, eptir þeirri náð,

sem honum er veitt; og ad lyktum óskar hann þessu heidrada sóknar- og sveita-fjelagi, sem hann svo lengi og óþreytanlega hafdi styrkt og stutt, allra heilla og blessunar, nádar og fridar af gudi fødur og drottni vorum Jesú Kristi. Amen.

## 2. Ræda,

haldin í kirkjunni
af
síera **Olafi Pálssyni,** prófasti í Mýrasýslu.

---

Frá þjer, himneski fadir, eru sendar, og sendar med gæzku og visdómi, sorgarstundir lífsins, og þú ert sá, sem hjer hefur kallad oss saman. Æ! gef oss þá og svo ad finna þad, ad þú sjert hjer med oss med þínum sæla fridi og þinni huggun. Gef þeim ad njóta þess og finna þad í sínum hjørtum, sem þú hefur vitjad med þessari sorgarstund, svo styrkvir í trúnni á þig megi þeir, og megum vjer allir, hefja hugann frá jardneskri sorg til þín, og í trúnni segja: „Fadir, verdi þinn vilji, svo á jørdu, sem á himni". Amen.

---

Svo margir sem vjer erum komnir hjer saman, þá má bædi sjá og finna þad, ad øllum býr alvara í brjósti, og margur er hjer staddur med hjartans sorg. Já, øllum oss, meir edur minna, er þessi stund ein sorgarstund, send

af honum, sem eptir visdómsfullu rádi kallar oss eins til sorgarfundanna, eins og frá honum eru þeir gladari samfundir, sem oss svo opt gefst ad njóta á lífsins leid. Og ekki erum vjer þess vegna svo til sinnis, ad vjer ekki þekkjum og kønnumst vid, ad allt, hvad guds visdómsfull forsjónarhønd færir oss, er hid bezta, ekki því, ad vjer ekki kunnum med gudsmanninum ad vidurkenna, ad „hann“, hinn alvitri, algódi gud, „gjørdi þad“, sem hjer er sked. En nokkud af þeim tilfinningum, sem nú hreifa sjer hjá oss, þad reynum vjer yfir moldum hvers eins þess, sem lengur hefur samferdazt oss um vegu lífsins. Med alvørugefni verdur þá hugum vorum snúid hjedan, og vjer svo sem fylgjum þeim, sem frá oss er burt kalladur, á eptir í anda yfir þad fótmálid, sem hann hefur stigid hjedan, og vjer horfum þannig fram á þá leid, sem eitt sinn liggur fyrir oss øllum, en horfum og svo á móti því hlutskipti, sem hjer er skilid frá oss, en hinu megin grafarinnar bídur allra. Og því meira sameinast þessum þønkum af hinu sorglega, sem sá, er frá oss burt kallast, er oss mikilsverdari, já, hjartakærari fyrir mannkosti sína og dyggd.

Við grøfina minnumst vjer þess þá með hjartans viðkvæmni, að „drottinn gaf“ og „drottinn burt tók“.

Svo er það fyrir oss øllum, með einum eður øðrum hætti, yfir moldum þess sæla høfðingsmanns, sem hjer liggur lík á meðal vor. Allir finna það og játa, sem hjer eru staddir, að mikinn missi hefur borið að hendi, og hin sama tilfinning knýr og svo mig til þess, að helga minningu hins framliðna nokkur orð, þó það verði og eigi að verða fyllilegar gjørt af øðrum, sem hjer vinnur hið síðasta sorglega skyldunnar verk.

Minning hins rjettláta, hins góða og dyggðaríka manns, geymist í blessun. O, svo er hún geymd í hinum æðra heimi, þar sem ekkert getur forgengið, og dyggðin øðlast sín eilífu, sælu laun, og rjettlætisins kórónu sá, sem hjer barðist góðri baráttu og hjelt trúnni. En og svo þeir, sem þreyja eptir, geyma hana, eins og hina dýrmætustu arfleifð, já varðveita hana, eins og hið fegursta minnismerki, sem hvílt getur á grøf hins framliðna, og hún er svo sem hið andlega sameiningarbandið á milli hans og þeirra, svo lengi sem samfundirnir enn nú ekki

endurnýjast hjá drottni, og það eitt verður gjört, að bíða þeirra í huggunarríkri von. Þannig geymum vjer hjá oss minningu hins sæla framliðna, og hún varir hjer hjá oss, eins og sannarleg prýði á hans grøf, óforgengilegri en allt jarðneskt; því sú prýðin heyrir hinu eilífa til. Og sú sanna hrósun, því verður hún hjer maklega gefin, að svo lengi sem lífsþráðurinn entist, viðhjelzt og blómgaðist og sýndi sína ávexti hin sanna, framkvæmdarsama dyggð, sem prýðir manninn bæði lífs og liðinn. Vjer minnumst þess hjer með rjetti, að hjer hefur burt kallazt frá oss einhver hinn mikilverðasti maður, sem hjer var uppi, ekki einungis í þessu hinu næsta byggðarlagi, heldur yfir allt það hjerað, sem vjer byggjum, og margur var sá, sem hlaut að sanna það, bæði nær og fjær, og geymir í heiðri þess minningu eptir hann liðinn. Hinum framliðna hafði forsjónin úthlutað stærra framkvæmdarsviði, en mørgum øðrum í hans stjett, og gefið honum að vissu leyti meira afl, til þess að vinna þar, en flestum øðrum; en það er þá og svo hrósunin, að þar var unnið. Svo opt var það, bæði nær og fjær, að þess þurfti, að sameina kraptana, til þess að koma

því einhverju til leidar, er almenningi var til heilla, og þá sannadist þad opt, ad hjer var til reidu øflug hjálparhønd, og þess var neytt, ad gud hafdi gefid kraptana til þess, ad vera med í verki. Fyrir ydur, sem hjer erud staddir, þarf eg ekki ad lýsa því, því mørgum mun þad vera minnisfast, hvad hinn framlidni var og reyndist sveitarfjelagi þessu í meira en fjóra tugi ára, er hann stjórnadi því, og þær menjar hans, sem þad ber eptir hans dag, eru til vitnis um þad, med hverjum áhuga og med hverri skyldurækt þar muni hafa verid unnid køllunarinnar verk. Þannig er minningin næsta heidursverd, þegar litid er á hinn stærri verkahring, sem hann hafdi úthlutadan af drottni; já, svo er hún þar, ad vissa er gefin fyrir því, ad hans muni lengi verda getid, svo sem þess manns, er á stærra svidi var bædi sinni eigin stjett og voru byggdarlagi til gagns og sóma. Þar kom fram hin verklega dyggdin, sem vjer allir elskum og virdum, sem vjer allir søknum, ad hún ekki lengur hrærist á medal vor, en søknum þó svo, ad vjer minnumst hins, ad hún hefur sitt verkkaup af honum, sem gefur allri dyggd sinn sanna óforgengilega heidurskranz.

Heimilið, sem hinn framliðni átti hið sama um öll æfinnar ár, og sem hann stjórnaði á fimmta tug ára, það sem nú er svo sorglegt og dapurt fyrir oss á þessari stundu, hversu lýsti það ekki á alla vegu þeim manni, sem með rjetti átti það nafn, að heita faðir hússins? Vjer dyljumst ekki við það, að hjer, um svo langa tíð, hefur gengið hinum framliðna til hliðar sú nákvæm og mild aðstoð, sem það að eins gefst fáum að samferðast um lífsins leið, og að og svo henni heyrir til sín hlutdeild í því öllu, sem prýddi heimilið fremur svo mörgum öðrum; vjer hvorki viljum nje getum að greint hvors hluta af því, sem unnið var, eins og hefði einn maður drottins gjört það. Hitt höfðum vjer allir lært, sem hjer þekktum nokkuð til, að elska og meta mikils hjá hinum framliðna húsföðursins sönnu dyggðir. Og eins og við því var að búast um þann, sem svo gætti þeirrar stöðu sinnar, svo var hjer og stöðuglega yfir og í húsi hans blessun drottins; en fyrir það var hún líka sönn blessun, að hún var ekki dregin í hlje, og því var ekki gleymt, hverjar eru þær fórnir, sem þóknast guði. Margur, sem þurfti þess, fann

hjer øfluga hjálp, margur nauðstaddur ljetti á sínum skorti. Í því lýsti sjer og svo sú dyggðin, sem hjer vann, og með hrærðu og þakklátu hjarta minnist þess nú margur, þegar sú höndin er kólnuð, sem vann þau verk, minnist á hann, þegar hann nú hefur stigið það fótmál, sem flytur til eilífðarinnar, og undir eins á hitt, sem drottinn hefur sagt og mun segja: „Hvað þjer gjörðuð einum af mínum minnstu bræðrum, það gjörðuð þjer mjer". „Yðar hógværð látið kunna vera öllum mönnum", segir guðsorð. Hún er fögur, sú viðmótsblíða dyggð, sem auk þess, að hún í sjálfri sjer hefur sitt verð, — því hún mun sjaldan vera annað, en búningur mannkærleikans, sem í hjartanu býr, — auk þess er svo löguð til að ávinna hjörtu mannanna, og getum vjer þó annað en munað eptir því, hvernig vjer svo opt áttum hjer því hóglyndi að mæta? hversu það mátti svo heita, að heimilið sjálft fagnaði oss, því þeir gjörðu það, sem stýrðu því, með siðsamri hjartans-álúð? Eg hef nokkrum sinnum verið hjer staddur, og reynt þetta hið sama, sem margir munu kannast við; og því optar sem það bar að, því fremur átti eg hjer vini að

mæta. Á þessari stundu getur hugurinn ekki annad en hvarflad ad þeirri stundu, er eg leit hinn framlidna hid sídasta sinn. Þá var því svo komid, ad undanfari daudans lá næsta þungt á kroptum hans, og margan leit eg þá nálgast hans sóttarsæng, sem gjørdi þad med fullri tilfinningu fyrir því, er hjer var tídast ad mæta, og sem enn nú þá ljet sig í ljósi. En allt þetta, eins og ord svo margra, var mjer vitni um þad, hvad hann hafdi verid svo mørgum, og ad hjer muni eiga heima sú hrósun, ad þeim sje hann mest harmdaudi, sem mest høfdu þekkt hann og reynt, og ad jafnvel þeir muni vera hjer, sem vant er ad kalla vandalausa, en standa yfir hans grøf med líkum tilfinningum; og hefdu þeir verid hans børn, og med þvílíkum tilfinningum horfa á eptir honum þangad, sem hann er vikinn, til hans, sem er vor allra fadir.

Vjer berum hjer allir søknud eptir mikinn og gódan mann, sem ad stundlegum samvistum er skilinn frá oss; en hvers þeir hafa misst, sem stódu honum næst, um þad høfum vjer lifandi vottinn á medal vor. Honum fylgir hjer til grafarinar fjølmennur barna-skari, og fleiri þeirra mundu af hjarta girnast, ad lita þann

stad, hvar hann verdur lagdur. Og øll bera þau sorg í hjarta, ekki af því, ad fadirinn sje burt kalladur frá þeim, á medan þau enn nú mættu kallast munadarlaus; því eins og honum veittist margfaldlegt drottins lán, svo var og þad, ad honum gafst ad líta þau øll komin á vissan lífsins veg. En um hitt er sú sorgin vitni, ad hann var þeim bædi gódur og ástríkur fadir, þad sem þau øll munu sjálf bera vitni um med mannkostum sínum og dyggdum. Og mætti sú hin heillaríkasta erfdin af øllum æ aukast og blessast þeim meir og meir. Med þeirri hjartfólginni vinarósk vil eg med þeim nema stadar vid grøf hins framlidna, og bidja gódan gud ad hugga þá, sem syrgja, en og svo þakka gudi, sem gaf, og vegsama hans nafn, sem burt tók.

Eg hef komid hjer, kæru vinir, til þess ad eiga med ydur sorgarfund, og skyldi eg þá ekki muna eptir því, ad taka med mestri vidkvæmni hlutdeild í kjørum hennar, sem hjer ber þyngsta sorgarinnar byrdi? en þad er hin heidrada, eptirþreyjandi ekkjan, sem med hinum framlidna átti hjer langa og farsæla samleid, naut med honum heidurs og blessunar af drottni, og

bjó með honum með stöðugri ást og tryggð, og tók samhuga þátt í hverjum helzt lífsins kjörum. O, viðkvæmt er jafnan hjartans sár, þegar dauðans hönd slítur þau bönd, sem bundin voru með stöðugri innbyrðis-ást um langa tíð; en hann leggur þau á, þau sárin, sem bezt getur með nákvæmri föðurhendi læknað þau, og honum skal því hjer falin áhyggja hjartans og þess sorg; því mæli eg hjer ekki fleira, en sú er min hjartans-bæn til hins alvalda, að hann, sem svo opt hefur gefið hinni eptirþreyjandi, að sjá ljós hreinnar gleði lýsa sjer um veginn, hann vilji og svo láta sól sinnar huggunar lýsa yfir þá myrkvari stiguna, sem hjer eptir kunna að vera fyrir hendi, uns það sameinast aptur, sem hjer hlaut að skilja.

Með þessum einföldu orðum kveð eg yður alla í drottni, heiðruðu syrgendur; en um fram allt kveð eg þig, sæli, burtsofnaði vinur. Hann, sem gaf þjer sitt sæla frelsi eptir langa liðan og þraut, hann gefi þjer og sinn eilífan frið; hann gleðji þig um aldir, því þú gladdir hjer svo margan. Amen.

# 3. Ræda,

slutt í kirkjunni af sóknarprestinum
sjera **Guðmundi Vigfússyni.**

---

Þjer eigum vjer, drottinn minn, að þakka líf vort og tilveru og allar góðar gáfur, bæði andlegar og líkamlegar, því af náð þinni erum vjer það, sem vjer erum; í þjer einum lifum, erum og hrærumst vjer; með öndu lífi og líkama erum vjer þínir. Þú leiðir oss eptir þínu órannsakanlega visdómsráði fram á sjónarsvið þessa heims, ljenar oss tíma, tækifæri, gáfur og krapta til lífs og sálar, og færð oss svo ætlunarverk í hendurnar, sem vjer eigum að vinna að, meðan dagurinn endist; þú úthlutar oss pundi til meðferðar og ávoxtunar, sumum minna og sumum meira, eptir því sem þínu alvísa ráði þykir bezt henta, en þegar vinnutíðin er hjer á enda, kallar þú oss aptur af akri hjervistarinnar, og lætur oss á þeim mikla degi gjöra reikningsskap ráðsmennsku vorrar, og grein fyrir því, hvernig því var varið og hagnýtt, sem hjer var veitt og ljent.

Kenn oss því að athuga í tíma, að vjer ekki erum vorir, heldur þínir verkamenn, að vjer stöndum hjer á

akri þínum, sem leigdir sádmenn, og eigum því ad audsýna dyggd og trúmennsku í køllun vorri, og það því heldur, sem þú færd oss allt í hendurnar, en vjer eigum þó sjálfir ad upp skera ávoxt idju vorrar og athafna, ekki ad eins stundlegan og jardneskan, sem brugdizt getur, heldur himneskan og eilífan, sem aldrei dvín nje forgengur. Kenn oss jafnframt, drottinn, ad telja vora daga, ad vjer erum hjer ekki heimamenn, heldur vegfarendur til hins fyrirheitna landsins, hvert vjer ekki getum komizt, nema vjer vøndum ráð vort, nema þú gætir ferda vorra og stydjir oss yfir þann þrepskjøldinn, sem liggur á milli lífs og dauda, tíma og eilífdar; þá munum vjer ekki verda kvaddir hjedan óvidbúnir, heldur vidbúnir, og vid stridslokin, ødlast það hnossid, sem vjer áttum ad berjast fyrir á vegferdinni. Amen.

---

Þegar vjer lítum yfir lífsleid vora, ástkæru tilheyrendur, og það køllunar- og ætlunar-verk, sem oss einatt ber ad høndum á henni, hversu opt hljótum vjer þá ad finna til þess, hvad mjøg vjer erum í vanda staddir, og ad oss veitir ervitt, ad fullnægja skylduverkunum, eins og vera byrjar á allar hlidar? Hver, sem gæta vill skyldu sinnar med vandvirkni og samvizkusemi, hann getur ekki annad, en fundid til þess, í hverri stjett og stødu sem hann er, ad honum er ærinn vandi á hendi, ad hann ekki er

fær um, ad gegna henni, nema hann sje studdur af ædra krapti, og máttur hins almáttuga sje verkandi í breyskleikanum. Þannig erum vjer, sem flytja eigum ord drottins vors, einatt í vanda staddir, ef vjer vid hvert lífsins atvik, hvernig sem þau svo bera ad höndum, og hvort þau eru gledileg eda sorgleg, eigum ad geta gegnt skyldum vorum sómasamlega, og vjer ætlum og ættum ad geta forsvarad bædi fyrir gudi og mönnum, og þad ekki sízt, þegar tveir atburdir gagnstæds edlis kalla oss á sama heimilid, til ad gegna þar skylduverkum, á sama missirinu; því þad eru nú ad eins 3 mánudir sídan, ad vjer vorum bodnir hingad[1], til ad fagna med fagnendum, en nú erum vjer kvaddir hingad aptur, til ad gráta med grátendum. Já, til þessa finnum vjer opt á leid vorrar köllunar, og þó ekki sízt — jeg segi fyrir mig — þegar skylduna ber ad því takmarki, ad vjer eigum ad mæla eptir látna ástvini, vini og vandamenn, eda þá adra, sem, eptir stödu sinni, voru hinir merkustu í fjelaginu, og sem heillir þess og velvegnan studdist vid, annadhvort yfir höfud, eda þá einstakra sjerdeilislega;

[1]) Þá gipti Jón sál. yngstu dóttur sína.

þá viljum vjer gjarnan, bædi vegna sjálfra vor og skyldu vorrar, og annara, sem hlut eiga ad máli, leggja þad fram, sem oss er veitt, bædi þeim framlidnu til verdskuldadrar virdingar, og þeim, sem eptir þreyja, til huggunar og ánægju; en hvad erum vjer þá, nema drottinn leggi mál á varir vorar og stýri tungu vorri, og fylling andans hrífi á hjørtun? Það er vandi ad gefa hverjum, hvad hann á, ad koma svo fyrir ordum sínum, sem bezt á vid í hvert skipti, ad hvorki sje skert eda hallad virdingu þeirra framlidnu med oflofi, nje hinir lifendu hneyrladir med óvidurkvæmilegu ordfæri á hinn bóginn; hjer er án efa vandþrædd gata sannleikans og medalhófid vandratad; og þarf jeg þó ekki ad segja þetta í því skyni, ad jeg sje hjer ókunnugur, því í sannleika var þessi vor framlidni vinur mjer handgengnastur af øllum mínum sóknarbørnum; en því skal ávallt treysta, ad drottinn samverki veikum vilja, þegar hann er einlægur, og hver athøfn er byrjud í hans nafni, eins og vera ber; og því skulum vjer nú vid þetta sorgaratvik, sem kallad hefur oss hingad, hafa ord postulans Páls oss til leidbeiningar, 1. Kor. 15., 10.:

„En af guds náð er jeg það jeg er, og hans náð medur mjer varð ekki til ónýtis“.

Það er auðsætt af orðum postulans bæði hjer og annarstaðar, að þó hann fyndi, hvað sjer var veitt, hvilikar andans opinberanir hann hafði fengið, hvilikum gáfum hann var gædd- ur, og hvað honum tókst að framkvæma, sem verkfæri og erindsreka drottins, á akri kristn- innar, þá tileinkar hann þessa yfirburði ekki sjálfum sjer, ekki eigin mætti, verðskuldun eða tilverknaði, heldur náð guðs, sem með sjer verki; hann sá sjálfur, hvilikt verkfæri hann var í hendi drottins, en að allt, sem hann gjørði og afrekaði kristninni til eflingar, var náðarveiting guðs, var gjøf frá honum, sem verkar allt í øllu; og því gaf hann honum einum dýrðina fyrir það.

Þannig er líka øllu mannlegu hlutskipti varið, øllum þeim gæðum, sem honum eru veitt, hvort heldur þau eru andleg eða líkamleg, øllu því, sem hann afrekar og framkvæmir, á meðan hann á hjer vistarveru. Gjafirnar eru marg- háttaðar, sem mønnum eru veittar, en hinn sami er andinn, hinn sami er drottinn, sem veitir þær og gefur. Vjer tøkum, bræður, ekkert af

sjálfum oss, því af guds náð erum vjer það, sem vjer erum; hann verkar allt í öllu; honum einum ber dýrdin og heidurinn. Vjer erum hjer á ferð, vjer erum hjer, sem reikandi vegfarendur í gegn um lífið, en til þessarar ferðar erum vjer gjörðir út af honum, sem veitir allar góðar gáfur. Hans er tíminn, hans eru gáfurnar, hans eru kraptarnir, og hvað eina, sem oss er fengið til meðferðar, til heillaeflingar, meðan vjer dveljum hjer. Vjer megum ekki fara með það pund, sem oss er fengið, eins og vjer höfum það ekki þegið, það er ekki vort, nema í þeim skilningi, að vjer eigum að brúka það og verja því oss og öðrum til góðs, til framfara, til fullkomnunar, en ef rjett er að gáð, er það lánsfje frá drottni; vjer eigum að standa reikning á því og meðferð þess fyrir honum, og skila því með ávexti. Það er engan veginn nóg, að vera gæddur miklum gáfum, til sálar og líkama, að hafa þegið mikið og veglegt pund af hendi skaparans, nema vjer sjálfir leggjum það fram, sem í voru valdi stendur; vjer hljótum að kannast við og játa, að þetta er gáfa, og hafa einlægan ásetning

og vidleitni ad verja því eptir visdómsfullum tilgangi þess, sem gaf það.

Vjer virdum ekki manninn í hjartanu, þó honum sje mikid veitt, þó hann hafi frábærar sálargáfur, þó hann hafi skarpan skilning, ljósa þekkingu, mikid vit og sálar-djúpsæi, þó honum sje allt í augum uppi, þó hann nemi og skynji allt á svipstundu, sem hann sjer og heyrir, ekki heldur þó honum sje veitt mikil audlegd, þrek, hreysti, líkamansburdir, snidugleiki, lán eda einstök lán-gefni; en verji hann þessum dýrmætu gáfum vel, kannist hann vid þær, sem lán og pund frá drottni, og leitist vid af öllu megni, eptir því sem hann hefur kost og færi á, ad efla med þeim sinn eiginn og náungans hag og velferd, og gefa drottni í öllu dýrdina, þá virdum vjer hann í hjartanu og metum hann mikils, því þá gefur hann það gudi, sem guds er, og nær í sannleika því midinu, sem drottinn ætladi honum, ekki einungis, hvad hann sjálfan, heldur adra áhrærir. Það er í sannleika mikid í það varid, ad vera gæddur ypparlegum gáfum og kostum til sálar og líkama, en þó er það enn meira vert fyrir manninn, ad þekkja þessa kosti rjettilega hjá sjálfum sjer, ad kannast

einlæglega við, að þeir eru guðs gjøf, hans náðarveiting, sem ekki má vera ónotuð eða til ónýtis; því drottni eru-þeir einir vel þekkir, sem óttast hann og vona á hans miskun.

Það er mikið í það varið, að geta komið miklu góðu til vegar í þeirri stjett, þeim verkahring, sem maður er settur í, að hafa lag og lán til, að beita þeim kostum og brúka þær gáfur, sem manni eru ljentar, svo ávextir iðju manns og ætlunarverks geti komið í ljós, og það í sem flestum greinum, að þeir nái til sem flestra, hvort það áhrærir líkamlega eða andlega framfør, en þó er það manninum sjálfum bezt, að hann játi og kannist við, að þessir kostir eru guðs náðargjøf, að hann framkvæmir og afrekar það, sem honum verður ágengt, fyrir hann, en að hann af sjálfs-dáðum er til einkis neytur; því temji hann sjer þetta þánkamið, taki hann þessa stefnu strax í öndverðu, og haldi henni svo áfram með varandi aldri, út rýmir hann øllum þótta, dramblæti og sjergæðingsskap úr huga sínum, en gróðursetur þar hinar fegurstu dyggðir, auðmýkt, hógværð og kristilegt lítillæti, sem eru þeir kostirnir, sem hverjum einum eru ómissanlegir, bæði í lífsins böli og blíðu.

Það er næstum ósegjanlegt, hvað margur einstakur, bædi nær og fjær, og jafnvel heilt fjelag, hvort það er stórt eda smátt, getur haft gott af lánsmanninum, sem ver pundi sínu þeim og því til góðs, því nær á allar lundir, en þó er hvað mest í það varid, þegar hann bædi í ordi og verki lætur það á sannast, ad hann tekur það ekki af sjálfum sjer, heldur hefur hann þegid það af drottni, sem út býtir øllum gódum gáfum. Eins og það er fagurt og yndislegt, ad líta yfir alblómgadan akur á sumardegi, sem madur hefur sjálfur yrkt og ræktad, med sveita sínum, alúd og ástundun, svo er það þó ad sínu leyti øllu fegra fyrir aldrada manninn, ad horfa á, hvernig gódverk hans gróa umhverfis hann í vídlendum verkahring, og kannast vid um leid, ad þetta er lán og gáfa frá drottni, ad hann gjørdi þetta og framkvæmdi fyrir hann og med hans adstod og fulltingi, og ad hans nád medur sjer var ekki til ónýtis.

Jeg sæ nú ekki betur sjed, en ad þetta geti mjøg vel heimfærzt til vors framlidna merkismanns, dannebrogsmanns **Jóns Sigurdssonar** á Alptanesi, sem liggur hjer

nú lík innan þessara náfjala; honum var í sannleika mikid pund veitt, bædi til sálar og líkama, og ad sumu leyti í fyllri mæli en mørgum af hans samtídarmønnum; en hann fann og þekkti þad líka sjálfur, hann kannadist vid þad og játadi þad bædi leynt og ljóst, vardi því samkvæmt tilgangi hins vísdómsfulla gjafara, og gaf honum einum dýrdina, eins og verdugt var.

Hann var borinn og barnfæddur hjer ad Alptanesi, eptir því sem næst verdur komizt, 15. ágúst 1787, af heidarlegu og velmetnu bændafólki, Sigurdi sál. Bjarnasyni, sem hjer bjó til daudadags 1810, og Sezelju sál. Aradóttur, sem dó hjer hjá syni sínum árid 1833. Hann fjekk sómasamlegt uppeldi í foreldrahúsum, þangad til fadir hans andadist, og var enda um tíma komid til menntunar til prestsins Bjarna sál. Arngrímssonar á Melum; þar lærdi hann ad skrifa og reikna, sem heldur fágætt þótti í bændastjett á þeim tíma; eptir andlát fødur síns tók hann strax vid búi og búsforrádum hjer á Alptanesi, og var sama árid skipadur bædi hreppstjóri og sáttanefndarmadur hjer í sveitinni, sem ad audsjáanlega

bendir til þess, ad hann þá strax á unga-aldri, eda ádur en hann vard fullmyndugur, hefur þótt bera af ødrum mønnum í þessu byggdarlagi ad vitsmunum, ráddeild og dugnadi, enda tók hann til þess sjálfur, svo sem nokkurs annarlegs og óvenjulegs, ad sjer vid skipti eptir fødur sinn sáluga hefdi verid settur fjárhaldsmadur, en þó sjálfur um sama leyti skipadur hreppstjóri af hlutadeigandi amtmanni.

Árid 1811, 24. júní, gekk hann ad eiga heidarlega yngisstúlku, jómfrú Óløfu Jónsdóttur frá Háteig á Akranesi, med hverri hann lifdi í ástríkasta hjónabandi á 43. ár; med henni átti hann 8 børn, af hverjum 2 eru látin, en 6 á lífi, og fylgja nú 5 þeirra, ásamt módurinni, harmandi líkbørum elskads fødur til hins sídasta legstadar; eitt þeirra býr í fjarlægd, og gat ekki komid á þennan sorgarfund, en rennir þó, ef jeg get rjett til, døpru sorgar-auga hingad þennan daginn.

Árid 1843 var hann fyrir langa hreppstjórn, dád, dugnad, alúd og framkvæmdir í stødu sinni, sæmdur med dannebrogskrossi af konunginum, og sýndi hann bædi á undan og eptir, ad hann var þess í alla stadi maklegur.

Jeg þarf annars ekki ýtarlega ad lýsa því, hver eda hvílíkur hann var ad ætt eda uppruna, gáfum, mannkostum, eiginlegleikum, atgjørvi og framkvæmdum, eda hvernig lífshagir hans, kjør, framganga og ráddeild var; þad er ydur, sem sótt hafid þennan sorgarfund, skyldum og vandalausum, fullt eins kunnugt og mjer; margir af ydur hafid umgengizt hann, frá því hann var fullþroska, og enda ádur; þjer þekktud, hvad honum var veitt og ljent, og hvernig hann vardi því; en mjer ætti heldur ekki ad vera um megn, ad geta þess, því hann var mjer, eins og ádur er á vikid, einna handgengnastur af øllum mínum sóknarbørnum, sídan jeg barst í þetta byggdarlag.

Ad minu áliti hafdi hann gódar og farsælar gáfur, var vel greindur og bar skynbragd á margt, og var í betra lagi ad sjer í bændarød, enda var hann einn af þeim mønnum, sem allt af tók framførum med tímanum, þar hann gætti ætíd, hvad gekk, og hafdi reynsluna fyrir kennslumódur. Hann var sannkøllud heimilisprýdi, stilltur í framgøngu ad jafnadi, sidsamur, vinveittur, gladlyndur, ljúflyndur, og mesta gódmenni; hann var gestrisinn, gódviljad-

ur, raungódur, tryggasti vinur, ráðhollur, þegar hans var leitad, og enda ótilkvaddur, og hreinskilinn í ordum, hver sem í hlut átti; hann var einstakur lánsmadur, svo þad mátti segja, ad honum yrdi allt ad gæfu, hvad sem hann byrjadi, og hvada útlit sem þad hafdi í fyrstu; enda var hann ad því skapi hygginn og ráddeildarsamur, og kom þar ávallt fram, sem betur mátti þykja, því hann unni øllu því, sem vel fór, var fridsamur, og leitadist vid, ad færa sem flest á betra veg.

Hann var einhver hinn tryggasti, ástríkasti og vidfelldnasti ektamaki, og mátti konu sinnar ekkert mein vita; enda ljet hann þad þráfaldlega í ljósi, um leid og hann kannadist vid adrar drottins velgjørdir, sem nádargjøf, ad hann hefdi veitt sjer eitt hid bezta hlutskipti, og sama ástarþel og rækt audsýndi hann børnum sínum og skyldmennum. Naudstøddum var hann einatt hjálpsamur, og gjafmildur vid ekkjur og einstædinga, en hann ljet sjer ávallt annt um, ad þad, sem hann gaf, yrdi þeim ad sem beztu lidi, sem þiggja áttu, og því var hann ekki eins ør af fje, og hann var efnadur og góðviljadur, ad hann valdi ávallt þann veg, ad

þess sæi stadi og kæmi ad sem beztum notum, sem hann gjørdi; en þess er heldur ekki ætíd getid, sem gjört er.

Sem hreppstjóri og sveitarforsvar var hann einstakur; því í þeim efnum hafdi hann ekki annad fyrir augum en eiginn sóma og hag sveitarfjelagsins, og má þó nærri geta, ad á svo langri leid, sem hann átti slíkum embættis-størfum ad gegna, hafi margt fyrir komid, sem hvorki var gedfellt nje greitt úr ad ráda; en hann vantadi hvorki þolinmædi, til ad bida eptir þeim hentuga tíma, nje lag eda ráddeild, ad taka í þann strenginn, sem bezt átti vid, svo hann nædi áformi sínu, enda verdur ekki annad sagt, en ad hann í þessum sem ødrum efnum væri studdur af einstøku láni. Ekkjur og munadarlaus børn tók hann opt á heimili sitt, og veitti þeim sómasamlegt uppfóstur, og ljetti þannig byrdinni bædi af þessu og ødrum sveitarfjeløgum, og ad lyktum innsigladi hann eins og rækt sína og velvilja til þessa sveitarfjelags med því, ad gefa því jørdina hálfan Sydri-Hraundal eptir sinn dag[1].

[1] Jørdin hálf er 12 hndr. ad dýrleika, med 60 álna landskuld og 2½ kúgildi; gjafabrjefid er dagsett 1. jan 1851.

Eins og hann var kurteis og sidprúdur i allri framgøngu, svo var hann þagmælskur, ord-var og umtalsfrómur um alla menn, og vildi ávallt þagga nidur og gjøra litid úr því, sem ødrum var talid til áfellis, allra-helzt medan engin røk voru ad því, ad þad væri sannhermt; hann var i einu ordi sannkallad gódmenni og valmenni, sem allt vildi ad færi sem bezt.

Ad ødru leyti var hann fjørmadur og heldur fljóthuga, sem von var, þar hann hafdi næg efni, þrek og dug til framkvæmda, en var nokkud ørgedja, þegar því var ad skipta, en þó á hinn bóginn ad svipstundu eins fljótur til sátta og vinmæla, og ekkert hefdi i milli borid; því gódmennska, hreinskilni og fridsemi voru adaleinkenni hans lundarfars.

Þegar vjer þá þannig litum yfir, hvad vorum framlidna var veitt, hverjum kostum hann var búinn, bædi i andlegan og líkamlegan máta, hvernig hann kannadist vid þá, sem nádargáfu drottins, og hvernig hann vardi pundi sínu honum til dýrdar, getum vjer ekki annad en ját-ad, ad nád hans med honum hafi ekki verid til ónýtis; honum var mikid veitt, mikid lánad, en hann fór líka vel med pund sitt, og vardi

því heidarlega; hann vann bædi sjálfum sjer og ødrum í hag, gaf hverjum þad, sem honum bar, og drottni dýrdina; því jeg verd ad segja fyrir mig, ad jeg hef ekki heyrt, og þad mun því midur sjaldgæft, ad annar eins lánsmadur og audmadur, eptir því sem kallad er vor á medal, og sá framlidni var, ljeti þad svo opt og berlega í ljósi, ad þad, sem hann hefdi, væri nádargjøf drottins, og þakkadi honum fyrir þad í áheyrn manna, enda mátti á fleiru merkja, ad hann var trúmadur og gudrækinn, og er þad eitt til merkis um þad, fyrir utan reglulegt og rækilegt bænahald í heima-húsum, ad hann hvern messudag gekk sjálfur í kirkju, sídan jeg kom hjer til sóknanna, og medal annars var þad sídasta ordid, þegar jeg kvaddi hann svo sem milli heims og helju í seinasta sinni: „Verdur messad hjerna næst eptir tiltølu?"

Þegar á allt þetta er litid, søknum vjer hans allir úr fjelaginu, því nú er hjer skard ordid fyrir skildi, søknum hans sem dánumanns og valmennis, søknum hans sem máttarstólpa, athvarfs og sóma fjelagsins, sem um langan aldur hefur med rádum og dád styrkt þad og stutt til allra heilla, søknum hans sem vinveitt-

asta og ráðhollasta fjelaga, søknum hans sem forgøngumanns og fyrirmyndar í mørgu góðu, søknum hans sem blíðasta og ástríkasta ektamaka, sem tryggasta føður og fósturføður og vinar, sem viðfelldnasta og stjórnsamasta húsbónda og heimilisprýði.

Já, von er, þó yður sje þungt fyrir hjarta, háttvirta, heiðraða ekkja. Þjer hafið mikið reynt og margt mátt bera um æfi yðar, margan sorga- og þjáninga-bikar af sopið með þolinmæði og stöðuglyndi, þó hvorki hafi brostið efni nje atvinnu, og þar á hefur nú bætzt, að þjer hafið misst það kærasta, sem þjer áttuð í þessum heimi, þann, sem þjer, bæði í orði og verki, sýnduð að þjer elskuðuð af øllu hjarta, þann, sem þjer auðsýnduð sóma og virðingu í øllum hlutum; en drottinn gefur yður styrk og þolgæði til að bera það, eins og annað, því hann er øruggt athvarf allra þeirra, sem á hann vona. Í sambúð við hann hafið þjer, eins og þjer margsinnis hafið vottað í minni áheyrn, notið ótal gleði- og yndis-stunda, hvers þjer minnizt nú með gleði og þakkargjørð, þó þjer þess á millum hafið með honum af sopið margan mótlætisbikar, því það, sem øðru var

byrlad, voru bædi fús af ad drekka. Med vidkvæmu hjarta og sorgmæddu sinni horfdud þjer upp á hans sídasta stríd, en sýndud þó ávallt þolinmædi og óbifanlegt trúnadartraust, og leitudud ydur hugarhægdar med því, ad ljetta honum byrdina eptir megni, og þegar þjer sáud, ad síga fór ad kvøldi lífs hans, og hann gat engum skyldum framar gegnt, hvorki vid ydur nje adra, urdud þjer því eins fegnar, ad drottinn leysti hann úr fjøtrum þessa lífs, og veitti honum dýrdlegt gudsbarna-frelsi fyrir Jesúm Krist, og þad því heldur, sem ydar ástkæri framlidni vinur þrádi ad sídustu, undir þunga byrdarinnar, sína lausnar-stund, um leid og hann studdist bidjandi fram á sinn trúar-staf; og því er nú harmur ydar ekkert hjá því dýrdarhlutskipti, sem drottinn hefur nú unnt honum.

Þjer saknid hans nú einnig, ástkæru, heidrudu børn, því hann var ykkur ástríkur og vidkvæmur fadir; hann unni ykkur heitt, og vildi ykkur vel í øllu; hann mun opt hafa minnzt ykkar í bænum sínum til guds; þjer erud þess minnug, hver hann var í ordi og verki, hvad fødurlega hann leidbeindi ykkur, og hvad um-

hugad honum var um ykkur og velferd ykkar, hvort þid vorud honum nálæg eda fjarlæg; hans dæmi og dagfar sje ykkur ávallt fyrir augum; í fótspor hans ber ykkur ad feta, eptir því sem ykkur er framast unnt; med því umbunid þid bezt þad ástrikid, sem hann vottadi ykkur; med því veitid þid ykkar sorg- og þrautbeygdu módur bezta huggun, gledi og raunaljetti á kvøldstundum æfinnar; med því látid þid á sannast, ad þid vidurkennid, ad þid erud af nád guds þad, sem þid erud, og ad hans nád ykkur til handa er heldur ekki til ónýtis.

Ad lyktum fæ jeg þess ekki dulizt, ad jeg sjálfur fyrir mitt leyti sakna mjøg þessa merkismanns úr sóknarfjelaginu, hvers sómi og stólpi hann hefur verid bædi fyrst og seinast, ekki einungis vegna þess, ad hann var einhver hinn þægilegasti, vinveittasti, hreinskilnasti og bezti madur, sem jeg hef kynnzt vid, heldur jafnframt hins vegna, ad hann vildi allt færa á betra veg, og lagdist med svoddan alúd og einlægni á samtøk vid þann, sem ad því vildi stydja; og væri óskandi, ad land vort, já, hvert sóknar- og sveitarfjelag í landinu ætti marga slíka merkis- og dánu-menn; því þá mundi þad sannast, ad þá

ýrdi bædi almennar og einlæglegar vidurkennt, ad menn eru af guds nád þad, sem þeir eru, og þess menjar sjást bædi í ordi og verkum, ad „sú nádin væri ekki til ónýtis". Amen.

---

# 4. Grafskriptir og erfiljóð.

## I. Grafskriptir.

†

Hjer liggur
höldur góður hniginn til moldar,

**Jón** dbrm. **Sigurðarson,**

fæddur 15. ágúst 1787,
giptist 24. júní 1811,
dáinn 26. sept. 1853,
faðir 9 barna.
Ekkja þráir hann og þeirra 7.

Hann var
sveitarstoð og sveitarsómi
í 43 ár,
gestrisinn, gjöfull og góðmenni;

samdi frid,
því fridi hann unni;
ástríkur ektamaki og fadir.
Heidradur af kóngi, og saknadur af öllum,
sem hans verkahringur
nádi til,
hvílist hann af verkum sínum
í gódra manna hvíld og fridi,
hvar vid allir óskum oss ad búa.

Svo minntist þess framlidna
einn hans **ungdómskunningi.**

Jón Sigurdsson, alþm.
Sandraseli.



Leið ønd til lífssala
á landi alsøgnuðs
eptir dagsverk æfi fagurt,
en holdsleifar geymast hjer
gøfugmennis,
dannebrogsmanns og hreppstjóra,

# Jóns Sigurðssonar,

sem fæddist 15. ágúst 1787,
giptist 24. júní 1811,
jómfrú Oløfu Jónsdóttur,
sem með afkvæmum 6 á lifi
sárt nú tregar, eptir sambúð ástríka,
tryggðreyndan ástvin í bøli og bliðu,
en tvø føður fagna á fegins-akri.
Hann varð hreppstjóri og sáttanefndarm. 1810,
en dannebrogsmaður 16. marz 1843,
deyði 26. septemberm. 1853.

---

Hann var sómi sveitar og stjettar,
guðhræddur, gestrisinn, geðljúfur, tryggur,
gætinn, lánsmaður, glaðlyndur, hygginn,
siðprúður, hreinskilinn, ráðhollur og raungóður;
unni ástvinum af øllu hjarta;
aðstoð nauðstøddum einatt veitti,
ekkjum bæði og einstæðingum
(þó veraldarlof að verðleik ei fengi);
vann með dáð i verkahring settum,
sinnti hag sveitar og sóma eigin;
elskaði frið og framfør alla;
vannst honum flest á veg betra' að færa,
því lag og lán løgðust á samtøk.

Sælir eru þeir, sem friðinn semja; því þeir munu guðsbørn kallaðir verða. Matth. 5. 9.

Svo minntist saknaðs vinar og elskaðs sóknarbarns

G. P.

---

## II. Erfiljód.

†

Lag: Sólin til fjalla fljótt.

1.

Glatt sumar færist frá,
følnun og haust ad ber;
lífsdaginn lídur á,
ljós dvínar, kvølda fer;
kom þú, ó herra hýr,
hjá oss ad gisting vert;
harmur og hrædsla flýr
hvadan burt, sem þú ert.

2.

Náttúran þjónar því
þinni tilskipun øll;
køld eptir skúrarský,
skín sól um hlýjan vøll;
vetrar um væra nótt,
í von mai lífgunar,
sefur því sætt og rótt
sóley og fífill rar.

3.

Blómgrasa lífi líkt
lífid vort reiknast má;
æskunnar yndid ríkt
er sem vorblóm ad sjá;
hásumars heidrud tíd,
heilbrigdi og krapt sem ljer,
þó jafnframt størf og stríd,
storma og hita ber.

4.

Hausttíma aldurs á,
æfin þó gangi vel,
følna og mædast má
manns fjør og hugarþel;
veitir þá von og trú

vetrar-blunds kæra nótt,
ad til eilífs sumars sú,
svefn og hvíld færi rótt.

5.

Blómgun og fölnun fer
ad forsögn skaparans;
lukka og lífsstundir
í lófum standa hans.
Harma nje mögla ei má,
þó mæti dimmt og kalt;
guds hvar sem gjörd er á,
til góda skedur allt.

6.

Skard fyrir skildi sjest;
skola tár margra kinn;
hjeradid Mýra mest
missi þó klagar sinn.
Höfdingi' er fallinn
frá,
fremstur sem lengi stód.
Svo fölna fífilstrá,
fyrrum sem krýndu lód,

7.

Ædri og yfirmenn
elsku-vin sinn fá þrád;
kóróna sveitar senn
sett er ofan í brád;
höfud og hýrt forsvar
heimilid Alptanes
missti, svo margir þar
munu sárt kenna þess.

8.

Herra **Jón Sig-
urdsson**
sáladist drottni í,
og bænar vissri von
um vegsemdar-skenk á
ný;
hátt sjötugs-aldri á
elli sú heidur bar,
barndómi blídum frá
blóm lands því metin
var.

9.

Audnusæl æfitíd
öldungsins fræga var,
hugást og lof af lýd
láni med stöku bar;

gladlyndur, huga-hýr,
heppinn á landi og sjó,
efnin af drottni dýr
dyggdugur þádi í ró.

10.

Fátækum gjørdi gott;
gestrisni fram úr skar;
manns-æru margan vott
með sæmd í ljós fram bar;
vinum mót fadminn frjáls
fagnandi breiddi sinn,
ástúdartryggd án táls
tendradi fastheldinn.

11.

Hann vard af herrans nád
hæstur í bænda stjett;
vald gott af gudi þád
gádi ad brúka rjett;
stjórn yfir sókn og sveit,
sinni í æsku tók;
lagfæring þeirra á leit,
lán og hagsældir jók.

12.

Þeirri trúr stód í stjett
stig lífsins gegn um allt;
fátækra-fjelags rjett
fastlega rækti ávallt,
þar til ad sælum svörd
sinn ferda lagdi staf,
eina þá ódals-jørd,
eptir í skilnad gaf.

13.

Fridsamur samdi frid,
sætta-því tign bar -manns;
sveitum vard sjerlegt lid
ad sáttatilraunum hans;
forlíka flest mál vann,
farsæll í veru og raun,
dannebrogs-heidur hann
af hilmi fjekk í laun.

14.

Við slíkan heidurshag
høfdingi ad ríkdóm med,

höfdinglegt háttalag
og höfdingslund sýna
    rjed;
ánægja og sómi senn
sýslunni þar af stód,
því slikir merkismenn
mikils krapta hjá þjód.

15.

Blómstrandi árum á
einnar fjekk jómfrúar,
med sæmd er sómahá
sinn mann á höndum
    bar;
ánægja og adstod var,
átta börn fæda vann,
eitt til, sem audnu bar,
ógiptur grædi hann.

16.

Einn son og átta fljód
eignadist barna því;
dád þeirra og gæfan gód
gladdi hans hugarbý;
fullordid fjöri svipt
fljód eitt nam sáran þrá,
en öll hin átta gipt,
med ánægju og vird-
    ing sá.

17.

Vikum fyr þrettán þó,
þá yngstu dóttur hann
gipti med gledi og ró,
en ganga af heimi vann;
úrval af bændum bezt
blómstrandi ad mægdum
    fjekk;
ein þó nam eignast prest,
allt svo til vilja gekk.

18.

Öllu i sinni sveit
sjálfrádu fólki baud,
ad lita' á sinn legstads-
    reit,
og ljetta svo hryggdar-
    naud;
heimilis ríkum rann,
rádlagi' i hverjum bekk,
audi og útför, hann
öllu rádstafad fjekk.

19.

Saddur lífdaga senn,
saddur virdinga med,
saddur audlegdar enn,
vid aldurs kvøld mæd-
ast rjed;
þreyttur lífs-ønnum af,
afloknum skyldum þó,
ønd sína gudi gaf
med gledi og hjartans ró.

20.

Til enda trúr var kífs,
tendrast því huggun sú,
kórónu krýndur lífs
hjá Kristi ljómar nú,
syngjandi sigurljód
sinn prísar skaparann
þar med útvaldra þjód,
þverra sú gledi ei kann.

21.

Skøpudu edli ad,
eins og vid jardar-mó
affallid følnad blad
felst undir vetrar-snjó,
holdid sig hvíla má,
horfid andstreymi kífs,
vært, þar til vaknar á
vormorgni eilífs lífs.

22.

Víst er í verøld skard
valmanna skarann í;
ei lengur audid vard
adstodar hans um bý.
Gud sár øll mýki meins,
missirinn bæti í hag,
og gefi mann annan eins
í þetta byggdarlag.

23.

Jeg þrái valinn vin
vikinn í burt um stund;
en mig gledur huggun
hin,
ad hels eptir væran
blund,
vid eilífa sumar-sól,
sjá fái aptur hann,
og getum þá guds hjá
stól
gøfgad vorn frelsarann.

24.

Og þjer, hans blídu børn,
burt hrindid sorgar-neyd;
farsæld hans fylgigjørn
farsæli ykkar leid;
farsælli ending ad,
eptir lífsskeid runnid,
í farsælum fridarstad
fundi hans náid þid.

25.

En þú, hans elskan góð,
allra sem hugást ber,
þitt hjarta er þrungid
mód,
þitt sár og mikid er.
Sá gódi grædarinn
gangi þjer manns í stad,
fagnadar-fadminn sinn
fagran þjer breidi ad.

26.

Lát sem hann segi þjer:
„Sæl dóttir, æ sje þín
unadsemd øll í mjer;
angurs skal hrundin pín;
effta dags morgun mund
mann þinn eg færi þjer;
þid skulud fegins-fund
fagna í dýrd hjá mjer.

27.

O Jesú, lífs um leid
leid þú oss þinni hønd,
og gegn um grøf og deyd
gæt þú ad vorri ønd;
gef oss med yndi og ást
øllum þjer sjálfum hjá
í himna sælu sjást,
og sigurhróss-hørpur
slá.

Amen.

J. J. ?

---

†

1.

Flytja mjer bárur Borgarfjardar
bodskap um dauda høfdingsmanns,
og ágæts sonar Isa-jardar,
er mætti lengi sakna hans.
Daudinn tók burtu — daprast von —
dannebrogsmann **Jón Sigurdsson.**

2.

Lífsskeid hans hnje ad elliárum;
ávextir lífs hans þróast nú;
døggvud í votum vina-tárum
vex minning þeirra' í dyggd og trú.
Allt hid góda, hann ávann hjer,
upp sker hann, gud! í dýrd hjá þjer.

3.

Hann var nágranna heill og yndi,
hjálparfús þeim, sem lidu naud;
gestrisni hans og gøfuglyndi
gjarna krýndu hans lán og aud;
stjórnsemi, vizka, von og trú
verndudu' og styrktu' hans kall og bú.

4.

Ástríkur faðir efnismiðja,
einhver hinn bezti maki var.
Virztu því, guð! að vernda og styðja
venzlaðra hjörtu', er dauðinn skar;
þerraðu blíðra barna tár,
bættu og græddu makans sár.

5.

Allt, er hann gjörði oss til sóma,
og eptirdæmis bræðrum hans,
minning þess lengi mun og hljóma
meðal innbúa þessa lands,
og Borgarfjarðar fjallasafn
fræða bergmáli um hans nafn.

---

Sæll er sá verk sitt vann
með vegsemd, dyggð og trú,
árvakur eins og hann,
sem okkur kvaddi nú.
Lof hans á lífsins-bók
lausnarans standa' eg sje.
Drottinn gaf, drottinn tók,
drottins nafn lofað sje.

P. Bl.

---

